# Ræda

## haldin á 13da sunnudag eptir Trinitatis árid 1847.

### Bæn.

Drottinn! Drottinn! hér sér þú í dag nokkur af bornum þínum híngad komin til ad dýrka þig, ákalla og tilbidja; þú þekkir, hvad med hverjum býr, hvad med einum og sérhverjum af oss kann ad leynast; þú þekkir alt vort ástand, alla vora bresti og ástrídur, allan vorn andlega veikleika og vanmátt. Líttu nú nádarsamlega nidur til vor barnanna þinna, sem játum, ad í þér lifum, hrærumst og erum vér, ad vér án þín megnum ekkert, ad vér getum ekki dýrkad þig réttilega, nema þú gefir oss þinn heilaga anda. Æ, gef oss hann í dag, gef oss hann á þessari stund, ad hann tilreidi vor hjortu undir heyrn þinna orda, veki hjá oss lyst og elsku til þeirra, dragi vorar hugsanir frá því jardneska til hins himneska, auki andaktina, styrki trúna, lífgi vonina, efli kærleikann, — so vér getum dýrkad þig hér med réttum anda, og þitt ord fái rúm í hjortum vorum, svo vér kynnumst vid þína óendanlegu nád og velgjordir vid oss, kynnumst vid vorar skyldur vid þig, og sérdeilislega þá skyldu vora, sem þú lætur minna oss á í dag. O,

vér erum þegnar þíns andlega ríkis, medlimir þeirrar sýnilegu kirkju þíns sonar hér á jördunni; hjálpadu oss øllum med anda þínum til ad gæta vandlega ad þessari vorri stødu, og minnast þess, ad þó vér séum kalladir, er ekki víst, ad vér fyrir þad séum útvaldir. Hjálpadu oss øllum til ad verda vissir um vora útvalníngu, — til ad geta elskad þig af øllu hjarta, allri øndu, øllum mætti og øllu hugskoti, og náúngann, þad er: alla menn, einsog sjálfa oss; þá verdum vér líka medlimir þinnar ósýnilegu kirkju hér í tímanum, og þegnar þíns himneska ríkis í eilífdinni, — þá verdum vér þínir erfíngjar, og væntanlegir samarfar sonar þíns Jesú Krists. Heyrdu ó Drottinn! hans vegna þessa vora audmjúku hjartans bæn, heyrdu hana miskunsami Gud og fadir, — Fadir vor o. s. frv.

## Inngángurinn.

Hver er þá minn náúngi? Svoleidis spurdi løgvitríngurinn, þegar Jesús hafdi sagt honum, ad hann svarad hefdi rétt uppá þá spurníngu: Hvad skal eg giøra, svo eg eignist eilíft líf? Jesús vissi, ad Gydíngar vóru vanir ad skilja ordid „náúngi" um sína eigin landa alleina, en ekki um heidíngjana; ad þessi meining þeirra væri raung sannadi Jesús med dæmisøgunni af manninum, sem hrasadi á medal ræníngja, sem líka er svar uppá spurnínguna: „Hver er þá minn náúngi?" Og lagadi Jesús svo dæmisøguna, ad eptir þad hinn løgvitri hafdi heyrt hana, þá gat hann sjálfur svarad spurníngu sinni, þó þad væri honum ógedfeldt, ad verda ad svara henni svoleidis; því Gydíngar fyrirlitu mjøg og hatudu alla þá, sem ekki vóru sømu trúar og þeir, svosem þeir hefdu adeins

fárra edur eingra kærleiksskyldna ad gæta vid þá. Þó hötudu Gydingar Samverska menn mest allra manna, og meir enn heidingja, og brúkudu ordid „Samverskur" sem versta brixl um þá, er þeir álitu óvini sína, og var orsökin til þessa haturs sú, ad „Samverskir" vóru í fyrstunni heidingjar, sem settust ad í midju Gydingalandi, tóku ad nokkru leiti Gydinga trú, og blöndudu henni saman vid heidindóms villu sína, og vildu ekki tilbidja Gud í Jerúsalem, heldur á Garizim fjalli. — Madurinn, sem miskunadi þeim hrafada, lætur nú Jesús vera einn af þessari hötudu og fyrirlitnu þjód, til ad sýna lögvitríngnum, ad Samverskir menn vóru þó sumir hverjir betri enn Gydingar, og höfdu réttari meining enn þeir um þad, hver þeirra náúngi væri.

Lögvitríngurinn, sem í fyrstunni komid hafdi ad máli vid Jesús, ekki til ad frædast af honum, heldur til ad freista hans, gat med eingu hrundid þessum beiska sannleika, samþykkti hann og gekk burt. — En einsog Gydingarnir höfdu rángar meiningar um þad, hver þeirra náúngi væri, og villast enn flestir í þessu efni, eins sýnist sem margir kristnir hafi mjög ógløggvar hugmyndir um þetta, og þyrftu betur ad ígrunda, enn þeir gjört hafa, þessa sömu spurníngu lögvitríngsins: „Hver er minn náúngi?"

Þeir munu ad sönnu flestir vera, sem svara mundu því og segja: þad eru allir menn, — en þegar madur skal álikta af breytni þeirra, þá er henni opt svo varid, einsog þeir vissu þetta ekki. Þeir eru í umdæmi sínu um samlífismennina hardir og ómildir, og í þörfum þeirra og bágindum óvidkvæmir og af

skiptalausir, líkt og presturinn og Levítinn við þann hrakaða, en heiptugir til hinna, er þeir þykjast eiga nokkuð varhendt við. Þetta kemur að vísu ei af því, að þeir ekki viti betur, heldur af því, þeir kæra sig ekki um að breita betur.

En þeir munu líka margir finnast í kristninni, sem bæði játa, að þeir eigi að elska samlífismennina sem bræður sína, og hafa líka einlægan vilja á að gjöra það, en þessi þeirra elska nær ekki til annara enn þeirra, sem þeir sjá, og hafa siðblendi við, til hinna huxa þeir sjaldnast eða aldrei, sem lifa í fjarlægum löndum, og hafa aðra trú enn þeir, — þeir kunna að hafa heyrt nefnda Gyðínga, Tyrkja og heiðingja, en að hver þessara sé líka vor náúngi, vor bróðir, það athuga þeir lítið og sjaldnast, og líklega því síður hitt, hvernig þeir sýnt geti einnig þessum merki til sannarlegs bróðurkærleika. Þessir þyrftu því án efa optar að spyrja sjálfa sig, enn þeir gjöra: „hver er minn náúngi?“ Þeir ættu betur að rannsaka Jesú kenníng um þetta efni, og þá mundu þeir betur sannfærast um, að Jesús ætlast til, vér elskum alla menn undantekníngarlaust, svo sem þegar hann seigir: Allt hvað þér viljið, að mennirnir gjöri yður, það eigið þér þeim að gjöra; eins þegar hann býður, að menn skuli elska óvini sína, sem þó sízt allra sýnast eiga skilið, að fá að njóta vorrar elsku. Þá afmálar líka dæmisaga guðspjallsins í dag sannleik þenna með ljósum litum fyrir hverjum eptirtektasömum kristnum manni. Þareð hinn Samverski áleit Júðann fyrir náúnga sinn, þó hann bæði hefði onnur trúarbrögð, og væri annarar þjóðar, og sú þjóð hataði mjög þá Samversku, þá minnir Jesús alla sína lærisveina þar-

með á, að með því hinn óupplýsti og hálfheiðni maður fann með sjálfum sér, að hann átti að elska jafnvel óvin sinn, þá sé það svosem sjálfsagt, að sínir lærisveinar eigi ekki að láta sér miður fara, þeir eigi að elska alla menn, vini og óvini, nálæga og fjarlæga, því allir séu børn føðursins á himnum. Hver maður, hvar sem hann er í heiminum, er þá vor náúngi, og hann eigum vér að elska einsog sjálfa oss. Þaraf flýtur, að hver heiðingi í heiminum er líka vor náúngi, og getur krafist vorrar elsku. Vér eigum þá að elska heiðingjana, það býður Jesús oss, það heimtar lærdómur hans af oss; en: hvernig vér gegnum, gegnt getum, og gegna eigum þessari skyldu vorri, — það viljum vér ennfremur yfirvega á þessari helgu stund. — Drottinn Jesús! gefðu, að hugleiðing þessi verði þér til dýrðar!

I. Þegar vér lítum til mannkynsins, sem býr á øllum jarðarhnettinum, verðum vér þess fljótt varir, að það er aðeins nokkur og ekki mikill hluti mannanna, sem nýtur þess sannleiks ljóss, sem vér njótum, er á Krist trúum, og kristnir nefnumst. Við seinustu aldamót taldist svo til, að 1 fimtúngur mannkynsins væri kristinn, eða af hérum 1000 milliónum 200 milliónir, og eptir þeim reikníngi urðu þá 800 milliónir Gyðínga, Tyrkja og heiðingja. Að vísu hefur fjøldi heiðingja kristnast síðan, því þessi øld er øllum øðrum øldum kristindómsins ágætari, — að undanteknum þeim fyrstu 2ur eða 3ur, — í því tilliti, hversu flestar kristnar þjóðir nú láta sér ant um, að kristin trú útbreiðist í heiminum, og brúka þar til miklu kristilegri aðferð, enn opt hefur á fyrri øldum brúkuð verið, þó Drottinn hafi opt hagað því svo til,

að einnig þeßari aðferð fylgði þó sú bleßan, að þjóðirnar um síðir þarmeð feingu að sjá sannleiks ljósið. — Svoleiðis hefur þá Krists kirkja á jörð-unni dásamlega aukist á nærstliðum 4um ára tugum, og eykst árlega, en án efa vantar þó mikið á það, að helmingur mannkynsins sé enn orðinn kristinn, svo það sýnist sem þeß muni enn vera leingi að bíða, að alt mannkyn verði kristið, verði 1 hjörð, og 1 hirðir. — Vér sjáum þá héraf t. v.! að þeir eru margir af bræðrum vorum í heimiuum, sem ennú sitja í myrkri villu og vanþekkingar, þekkja eingan sannan Guð, lifa án huggunar, án trúar, án vonar. Finst yður ekki þeßi huran, þeßi hugarsjón vera hrær-andi? Og skoðum nú betur ástand þeßara aumu, einkum heiðingjanna, því það eru þeir, sem vér ein-kanlega hurum til ídag. Látum oß sleppa öllum ótta fyrir óförum þeirra í eilífðinni, eða að minsta kosti ekki geta hans, — skoðum einasta þeirra jarðnesku eymdir, þann hörmúnga þúnga, sem á þeim liggur hér í heimi, þá ánauð, sem syndir og guðleysi steypir þeim í, — og þá mætti þeßi huran eingaungu verða oß sterkasta hvöt til meðaumkunar yfir þeim. — Hversu átakandi, hversu ofboðsleg er ekki lýsing kristni-boðaranna á villu, grimd og þjáningum þeirra. Víða er það svo, að þriðjúngur eða helmingur barnanna eru tekin af lífi eptir að þau eru nýfædd, — að hinum, sem fá að lifa, er kendur þjófnaður sem þarf-legt handverk, — að mennirnir fara með konur sínar sem þræla, eða einsog skinlausar skepnur, — að son-urinn deyðir föður sinn og móður, þegar þau eru orðin gömul og örvasa, — að heipt þeirra og hatur er líkast óslökkvanlegum eldi, svo að þeim nægist ekki

einasta ad svipta lífinu sigrada óvini, heldur pína þá líka ádur med allshįttar kvolum, ad eg ekki tali um ófreskjur þær, sem leggja sér til munns hold og blód deyddra óvina sinna.

Margir þessara sýnast ad vera samvitsku — og tilfinníngarlausir, án þess þeir þó í rauninni séu þad; adrir þarámóti ern svo samvitskusárir og hræddir fyrir gudum sínum, ad þeir leggja á sig sjálfir þúngar og viðvarandi pintingar alla æfi, svo ad þeir frííst eptir daudann frá straffinu fyrir syndir sínar hér í lífi. — Ellegar ef vér lítum á heidíngjana frá annari sjónar hæd, og sjáum þá flutta hundrudum saman, sem fénad, fjötrada og lokada inni i þraungum skiprúmum undir þéttum þilförum vid litinn kost og í banvænu lopti, hrífna burt úr fødurlandi sínu frá øllum náúngum, kunníngjum og vinum, vonarlausa um ad sjá nokkud af þessu nokkrusinni aptur, og meiga búast vid ad verda seldir mansali, þjást med þýngsta erfidi, og aldrei aptur ad fá frelsi sitt. Hvad er eymda og hørmúnga lif, ef ekki þetta? Hvad getur verid ólíkara hvert ødru enn þetta heidíngja líf, og líf kristinna manna, sem leidast af Guds anda? Hvad er umhurunarverdt fyrir kristna menn, ef ekki þetta? Hvada stálhjarta er þad, sem ekki vikuar vid þessa skodun? Og skyldi þad nú ekki vera skylda vor, sem þekkjum þann Gud, sem er kærleikurinn, og vitum, ad hann vill vér gaungum í kærleikanum, — ad minnast slíkra med kærleika og kristilegri medaumkan? Vér aumkumst yfir þann húngrada, klædlitla, heilsuveika, fyrirlitna, sorgbitna, sem oss er nálægur, og kvartar fyrir oss yfir þørfum sínum og bágindum, og vér gjørum þad réttilega, þvi þad er vor skylda, en þad

er líka vor skylda, ad minnast kærleikslega þeirra vorra brædra og systra í heiminum, sem fjær oss eru, og ekki einasta þiást af þessum þágindum og hverjum ødrum, sem oss geta mætt, heldur og líka vita ekki af neinum þeim huggunarlindum Guds orda, sem øllum sannkristnum veita svølun og endurnæring, svo ad mótlætisokid getur ordid þeim sætt og byrdin létt. — En, gegnum vér nú þessari skyldu vorri svo alúdlega sem vera skal? Kemur oss þad opt til hugar, ad vér eigum ad elska alla menn, ad heidingjar einsog kristnir eru vorir brædur og systur med líkum tilfinníngum, líkum eptirlaungunum og vér? Gleymum vér ekki því, sem Postulinn býdur, svo seigjandi: Fyrst og fremst áminni eg um þad, ad menn framberi bænir, óskir, fyrirbænir og þakkargjørd fyrir øllum mønnum 1 Tim. 2, 1.? Og þegar hann taladi þessi ord, vóru þó flestir, og einkum kóngar og yfirvøld, heidnir. Héraf sjáum vér, ad þad er skylda kristinna ad bidja fyrir heidíngjum. En, gjørum vér þad þá? Er þad ekki miklu optar eda optast, ad vér gaungum framhjá þeim í bænum vorum, líkt og presturinn og Levítinn, sem án medaumkunar geingu fram hjá honum, sem hrafad hafdi á medal ræníngja? Jú, vísulega; allir meigum vér med blygdun játa fyrir Gudi: Þessu bodi þínu høfum vér ekki hlýdt, þessari skyldu vorri høfum vér ekki gegnt, — Gud! vertu oss syndurunum nádugur.

II. En, sked getur, ad einhver ydar k. tilh.! kunni ad hura: hvernig getum vér elskad menn í fjarlægum løndum, fjarlægum heimsálfum, sem vér aldrei høfum séd, eda getum séd? Jú, vér getum þad, vér høfum fyrir oss nóg dæmi annara kristinna,

sem það hafa gjört, og sýnt það með órækum rökum. Síðan á postulanna dögum hafa þeir ætíð verið margir, eða að minsta kosti nokkrir í kristninni, sem bæði hafa munað til þess, að heiðingjarnir eru líka bræður vorir, og undireins stuðlað til þess með meira eður minna fylgi, að þeir gætu orðið njótandi sömu lukku og blessunar sem þeir kristnu. Þeir fundu, hver mismunur er á, að gánga í ljósinu eða myrkrinu, þeir fundu sér skyldt að kenna í brjósti um og elska þá bræður, sem þeir vissu, að sátu í myrkri og dauðans skugga, Luk. 1, 79. Og þessvegna kostuðu margir þeirra til þess bæði fé og fjöri, að þeir gæti feingið að sjá ljósið, sem oss lýsir til eilífs lífs, sjá ljós heimsins, drottinn vorn Jesús Krist. Og því gaungum vér Íslendingar í ljósi Guðs orða, að sá kóngur var til, sem með allri kostgæfni ástundaði að leiða Guði til handa þann lýð, er Ísland byggir.

Með sama sinnislagi hafa ótal aðrir í kristninni, bæði háir og lágir látið sér vera ant um, að Jesú andlega ríki útbreiddist sem víðast, og þó er það einkum nú á dögum, að almenníngur kristinna sýnist, fremur enn verið hefur, vera farinn að gefa gaum að þessum hrósverðustu tilraunum, og vilja taka hlutdeild í þeim. Því eru í flestum kristnum löndum á þessari öld stofnuð kristniboðs félög, 1 eða fleiri eða mörg, en hvert aðalfélag skiptist aptur í margar smærri greinir eða deildir, sem kvíslast út um alt þjóðlandið. Öll þessi félög hafa það mið fyrir augum sér, að greiða Jesú trúarbrögðum inngaungu í heiðnum löndum, gjöfum er safnað meiri eða minni bæði frá meðlimum félaganna, og öðrum, sem ekki eru í þeim, en bera þó virðingu fyrir þessum kristi-

legu fyrirtækjum. Til ad rádgast um, hvernig verja skuli gjøfunum og tekjum félaganna, haldast 1 sinni, 2 edá optar á ári hverju fundir, sem øllum, sem vilja, er leyft ad sækja, eru þá súngnir sálmar og fluttar gudlegar rædur, er allar mida til þess ad sannfæra tilheyrendurna um þá skyldu kristinna manna: ad leida heidingjana til Gudsríkis, og hvetja þá til med kristilegu ørlæti ad gjøra þeim lífid og køllun sína bærilega, sem yfirgefid hafa fødurland, ættingja og vini, og annad, sem mønnum er kærast og dýrmætast, og farid til heidinna landa til ad birta þar lærdóminn um Krist og hann krossfestan. Eingar gjafir eru svo litlar, ad þær séu ekki vel þeignar, því þad er kristnum kunnugt, hvert álit Frelsarinn hafdi á gjøf þeirrar fátæku ekkju, sem ad eins gaf 2 smápeninga musterissjódnum, og gaf þó meir enn hinir ríku, því Drottinn lítur fremur á hjarta og tilgáng gjafarans enn stærd gjafarinnar. Tekjum sínum verja þá føløg þessi, einkanlega þeim til uppeldis og launa, sem gefid hafa út líf sitt til frelsis og blessunar heidingjum, og líka til kirkna og skóla bygginga hjá þeim nýkristnudu, og til annara þeirra andlegu eda líkamlegu þarfa. Eitt þvílíkt kristnibodsfélag er stofnad í Danmørk fyrir hérum 26 árum, og munu greinir þess nú þegar hafa breidt sig út um flest hérød ríkisins, en sjódur þess hefir svo blómgast, á þessu tímabili af eintómum gjøfum kristilega sinnadra manna í Danmørk, ad nú á þad skuldlaust nærfeldt 6000 ríkisdala, þó þad árlega eydt hafi miklu af sjódnum Guds ríki til eflíngar í ýmsum løndum.

Hvada hugsanir vekur nú þetta hjá ydur k. vinir? Eda finst ydur mál þetta ekki umhugsunarverdt? Eda

haldid hér, ad oss hér í landí sé þetta kærleiksverk: ad styrkja til Guds ríkis komu til heidingjanna, — ómögulegt, þó ödrum kristnum þjódum sé þad mögulegt? nei, öldúngis ekki. Einsog adrir kristnir geta þad og gjöra, eins getum vér þad. Vér erum gæddir tilfinningum og skinsemi einsog þeir, svo vér verdum ad finna, ef vér athugum þad, ad heidingjarnir eru aumkunarverdir, og skilja, ad þad er skylda vor ad studla til þeirra velferdar, og þad því heldur sem forfedur vorir vóru líka heidíngjar, en frelsudust vid kapp og ástundan annara kristinna á þeim tímum, ad birta þeim og boda Jesú trúarbrögd. Vér höfum allir nokkud undir höndum, sem vér köllum eigur vorar, og erum vissulega ekki fátækari enn sumir hinna, sem þó gjöra gott og útbita af sínum litlu fjármunum til blessunar heidingjunum; þad er þá viljinn einasta, sem sked getur ad vér höfum ekki einsog hinir, en hann getum vér líka útvegad oss, Gud gefur oss hann, undireins og hann gefur oss sinn anda; en um anda hans eigum vér, hljótum vér hann optlega ad bidja, því án hans getum vér ekki verid sannkristnir. Med tvennu móti getum vér þá, sem adrir kristnir, studt ad frelsun heidingjanna, vér getum þad med bænum vorum og ölmusugjöfum. Þad er ekki þúngt ad bidja fyrir þeim, sem madur elskar, og því skyldum vér ekki elska brædur vora, þó þeir séu ófarsælli enn vér, einkum þegar vér adgætum, ad þeir eru ekki fremur skuld í sinni ógæfu, enn vér getum þakkad oss þá meiri nád, sem vér höfum ordid fyrir. Einsog þad er rétt og skyldt, ad holdleg systkyni elski innilega hvert annad, þó þau, sem opt ber vid, hafi ekki öll jöfnu láni ad fagna,

eins er það nauðsýnlegt, að vér manneskjurnar minnumst þess, að ætt vor er ein, að vér erum allir afkomendur vorra fyrstu foreldra, því er það svo eðlilegt, að vér elskum hver annan, og biðjum hverjir fyrir öðrum. Og Guðs orð lætur oss líka vita, að það er ekki til einskis að biðja fyrir öðrum, því þetta eru Jesú orð, og hans fyrirheit: „Biðjið, og mun yður gefast," — og einn sinna postula hefir hann látið seigja oss, sem biðjum, til huggunar og trúarstyrkingar þettà: biðjið hver fyrir öðrum, að þér heilbrigðir verðið, því bæn hins réttláta megnar mikið, þegar hún er alvarlag, Jak. 5, 16. Og ef það gagnar að biðja fyrir þeim, sem veikir eru líkamlega, þá gagnar það efalaust ekki síður að biðja fyrir þeim, sem á sáliuni eru vanheilir. En það er ekki nóg, að vér biðjum fyrir þeim vesælu heiðingjum, vér verðum og að vera oss þess meðvitandi, að vér höfum einlægan vilja til að hjálpa þeim, og þaraf getum vér best þekkt, hvert bæn vor fyrir þeim er af einlægni og alvöru, eða ekki. Það er ekki þúngt að hjálpa þeim, sem maður elskar, og allra síst, þegar maður veit, að sér verður það endurgoldið, og þegar maður hefir fyrir sér dæmi annara, og veit þeirra aðferð. Nú vitum vér það, hversu aðrir kristnir annarstaðar í heiminum með frjálsum gjöfum af eignum sínum, hvert þær eru miklar eða litlar, efla kristniboðið í fjærlægum heiðingja löndum, — hversu þeir gefa í þessum tilgángi annaðhvert árlega, eða stöku sinnum, svosem við viss mikilvæg atvik í lífinu, — þetta vitum vér, að minsta kosti nokkrir af oss, og þessa sömu leið getum vér geingið, ef vér viljum, ef trú vor á andlegum sannindum er með nokkru fjöri, og liggur

ekki í dái og er hreisingarlaus. Þá, ef vér trúum, þá vitum vér líka, ad hér er ekki unnid fyrir gíg, ekki gjöfunum kastad í rifinn sjód, heldur hann sjód, sem ekki fyrnist, og vel geymist, og þó vér gæfum leynilega, svo eingtnn madur afvissi, þá er oss þad nóg, ad einn er samt, sem sér þad, sem vel er gjört, sem veit af því, sem í leyni er gefid, og mun þad á sínum tíma opinberlega endurgjalda, — þad er oss nóg, þó nöfn vor séu hulin á jördu, þegar vér vitum, ad þau eru skrifud á himnum, Lúk. 10, 20.

III. Eigum vér þá líka ad elska heidingjana? — nær sú skylda til vor? — er hún talin med ödrum skyldum vorum í Guds ordi? þessari spurníngu vil eg líka svara í áheyrn ydar í dag k. tilh.! og svar mitt verdur þá: já, vissulega. Þad skiljum vér ad nokkru leiti af ádursögdu, þegar minst var á, ad vér ættum ad elska náúngann eins og sjálfa oss, og ad allir menn án undantekníngar væri vor náúngi. Kærleikurinn er höfudbodord kristindómsins, hann fellur aldrei úr gildi, hann varir vid, þegar þetta líf þrýtur, — hvernig geta þá takmörk hans hér í lífi verid svo þraung, ef hann skyldi ekki ná nema til þeirra, sem oss eru næstir, eda einúngis til vorra trúarbrædra? Nei, þegar kristindómurinn seigir oss: elska þú náúnga þinn, — þá seigir hann: elska þú alla menn, stundadu þeirra velferd af fremsta megni.

Alteins ef vér lítum á rétt heidingjanna, sjáum vér, ad hann er í raun og veru hinn sami sem vor, sami er þeirra endurlausnari, þó þeir þekki hann ekki, sami skaparinn, sami fadirinn á himnum, sem ekkert manngreinar álit er hjá. Vér nefnum hann í drottinnlegri bæn fodur vorn, skyldi þar vera meint

eingaungu til kristinna? Og þó vóru fáir adrir enn lærisveinarnir búnir ad játast undir Jesú lærdóm, þegar hann kendi þeim þessa blessudu bæn. Nei, fadirinn á himnum er fadir allra manna í ollum heiminum, og hann elskar oll sín born, og hann vill, ad vér séum fullkomnir, — þad er: leitumst vid ad vera þad, — einsog hann er fullkominn, — hann vill, ad vér elskum bræburna, einsog hann elskar oss. Þad er og adgætandi þessu máli til sonnunar, ad Jesús skipadi sínum lærisveinum ad fara útum allan heiminn, og kunngjora allri skepnunni, þad er ollu mannkyninu nádarbodskapinn. Þessu bodi Jesú hlýddu þeir, þessari kollun sinni gegndu þeir med mesta kappi og ástundan alt til daudans, þarfyrir hofdu þeir þó ekki komid nema til sumra landa í þeim þekkta heimi, sem þá var, og þó ekki getad snúid til trúarinnar á Jesús nema nokkrum í hverju landi, sem þeir komu í; og hvad mundi nú hafa ordid um kristindóminn í heiminum, hefdu ekki adrir kristnir tekid þar vid, sem postularnir hættu, hefdi ekki Guds Andi sannfært þá um, ad þessi ord: „farid útum allan heiminn, og gjorid allar þjódir ad mínum lærisveinum" — nádu til fleiri enn postulanna, nádu til allra kristinna manna á ollum heims oldum, sem og best sést af þessum Jesú ordum, sem koma rétt á eptir hinum: „og sjáid, eg er med ydur alt til enda veraldar." —

Med þessum ordum hlýtur Jesús ad hafa litid til allra, sem hann sá fyrir, ad efla mundu ríki hans hér í heimi, svo leingi hann stædi. Hann gat ekki odruvísi talad til þeirra, sem þá vóru ófæddir, en hann fyrirsá, ad lifa mundu og trúa á sig, — enn

svoleidis, og því seigir hann líka við lærisveina sína með berum orðum: „hvað eg seigi ydur, það seigi eg øllum.“ Svo ætlast þá Jesús til, að allir lærisveinar hans á øllum tímum láti sér vera ant um efling og útbreidslu ríkis hans með tilliti til þeirra hæfilegleika, sem hver þeirra fyrir sig hefir þartil þeigið; — þarfyrir ætlast hann ekki til, að allir gángi hinn erviða køllunarveg postulanna, heldur adeins þeir, sem hann hefir þartil kallað, en hinir, sem minna leggja í sølurnar, greidi þeim gánginn með kristilegum kærleika og ørlæti, því verdur er verkamadurinn launanna; þeir geta ekki komist yfirum þau breidu høf og úr einni heimsálfu í adra, og ekki lifað í heidnum løndum við óholla fædu og óheilnæmt lopt, eda hjálpað líkamlega naudstøddum heidíngjum, og sannað með því kærleika kristinna manna til þeirra, — nema þeir séu til alls þessa øflugt styrktir af þjóð þeirri, sem þá sendi út, eda af kristniboðs félagi þjóðarinnar, sem þessvegna tekur á móti gjøfum hinna kristnu, sem ekki skora sig undan, að vinna nokkud að þessu mikla verki: að kristna heidíngjana. — Og lorins vil eg geta þess að þetta hlýtur að ske, að þarað mun koma á sínum tíma, að það ljós sannleikans, sem vér nú gaungum í, mun líka breida birtu sína og blessan útyfir allar adrar heimsins þjóðir, — því þetta hefir Jesús sagt oss að verda mundi, og þessu hafa einnig spáð postular hans. „Fagnadarbodskapur ríkisins mun um allan heiminn bodadur verda, svo fyrir øllum þjóðum vitnist þarum, og þá mun endirinn koma „Mat. 24, 14. seigir Jesús. Þessi spádómur gæti ekki rætst, ef kristnir ættu ekki að greida fyrir færslu þessa bodskapar til heid-

inna landa, ef þeir væri ekki sannfærdir um, ad þeir ætti ad láta svo ljós sitt lýsa fyrir mönnunum, ad þeir séd gæti þeirra gódverk, og dýrkad svo födurinn á himnum. Jesús hefir spád, ad allur heimurinn muni kristnast, ádur enn heimsendirinn komi, hann sagdi, ad saudir sínir væri med tvennum hætti, nokkrir, sem þegar væri leiddir til hans, og adrir, sem hann mundi leida til sín, og er þad audsætt, ad hann meinar til heidingjanna, þegar hann nefnir þá adra saudi; hann seigir, ad bædi þessi saudahús muni sameinast, svo 1 verdi hjördin, einsog 1 er hirdirinn, þad er: ad allar þjódir heimsins verda muni lorins ad 1 kristnum lýd, sem þekki hann, og heyra muni hans rödd. Þessari kenning samsinna postular Drottins. Í Opinberingarbókinni vitnar Jóhannes, ad þessi lofsaungur hafi verid súnginn Gudi: „Hver skyldi ekki óttast þig Drottinn! og vegsama nafn þitt, því þú einn ert heilagur, því allar þjódir munu koma og tilbidja fyrir þínu augliti,“ Apoc. 15, 4. Og postulinn Páll spáir, ad forherding muni hvíla yfir nokkrum hluta af Ísrael, þángad til fylling heidingjanna er innkomin, — sem er med audskildari ordum sama sem: þángad til þeir mörgu heidingjar eru ordnir Krists ríkis borgarar. Rom. 11, 25.

Vér sjáum af öllu þessu, ad vor kristilega trú skal um sídir sigra alla trúarvillu, hjátrú og vantrú, sem enn drottnar í heiminum, og þad er gledileg huran fyrir hvern þann af oss, sem elskar trú sína, og höfund trúar vorrar, Drottinn vorn Jesús Krist. Ad sönnu undrumst vér, hvad leingi á því stendur, ad spádómur þessi uppfyllist, en gætum ad, vegir Guds eru ödruvísi enn vorir, þeir eru oss tídum

óſinnanlegir. Það er og líkleg meining, að vér kristn- ir ſéum ſkuld í því, að það dregſt ſvo leingi, að þeir fái ljóſið að ſjá, ſem í myrkrunum ſitja, af því þeir hafa verið, og eru enn ſvo margir í kriſtninni, ſem meina, að þetta mál komi ſér ekkert við, — ſem að ſönnu þekkja ſannleikann, en eru þó ekki af honum. Kornſkeran er mikil, en verkamennirnir hafa verið fáir, og eigandi akurſins var ofſjaldan bedinn að ſenda fleiri verkamenn til kornſkurðar ſíns, Lúk. 10, 2.

Eg heſi þá leidt að því nokkrar rökſemdir, að ſú ſkylda hljóti að ná til vor kriſtinna, að ſkoraſt ekki undan því, eptir mögulegleikum að efla og auka ríki Guðs og Jeſú hér á jörðunni, og hjálpa til þeſs, að heiðingjarnir frelſiſt, og komiſt til ſannleikans viður- kenningar, því þetta er Guðs vilji, 1 Tím. 2, 4. Og mennina þá, ſem ſannleikann þekkja og elſka hann, þá hefir hann brúkað þeſsum vilja ſínum til fram- kvæmdar; hann hefir að víſu kallað alla kriſtna til að vinna að þeſsu verki, en adeins fáir, adeins þeir út- völdu, ſem játudu, að þetta væri ſín ſkylda, komu og héldu verkinu áfram.

Það, ſem Guð vill, það eigum vér líka að vilja, hann vill einskis ſyndara dauða, heldur að hann ſnúiſt og geti lifað, hann vill eingra ófarir, með ſama ſinni eigum vér að vera, það ſeigir oſs Guðs orð, það ſeigir oſs vor eigin tilfinning; ef vér finnum til gledi af því að vita, að Guð gaf oſs ſoninn, og alla góða hluti með honum, þá finnum vér líka, að oſs er ſkyldt að þakka af hjarta gjafararum þeſsa ómetan- legu velgjörð, og að vér getum og gjörum það beſt, þegar vér elſkum bræðurna, og kappkoſtum að leiða ſem fleſta þeirra, er vér getum, frá dauðanum til líffins.

Ef ydur þá, elskudu vinir! finst mikid um þad, ad Jesús Kristur er kominn í heim þenna, synduga menn sáluhólpna ad gjöra, ef þér, þegar mótlætid ádynur, þegar vinir hverfa, fjármunir missast, veikleikar offækja, gledistundir fækka, en hrigdar og ángursstundir fjølga, og lífid alt verdur likt dymmum og óskemtilegum ódvedursdegi, — ef þér þá finnid hvergi huggun og gledi og hvíld, utan í Jesú sáluhjálplega lærdómi, í kenníngum hans og fyrirheitum, ef þér, — þegar daudinn ber á dyr, og ógnar med dómi og eilífd, þá vitid eingan annan gridastad ad flýja í, enn nádarfadm bródur vors og frelsara Jesú Krists, — þá gleymid ekki þeim brædrum ydar og systrum í heiminum, sem ennú ekki hafa hlotid þessa nád, þekkja eingan frelsara, hafa einga trú, einga von, eingin áreidanleg huggunar fyrirheit, — sem á andlegan hátt eru eingu betur farnir enn sá hrasadi madur, sem var ræntur klædum, og lemstradur sárum, og hálfdaudur eptirskilinn. Gángid ekki fram hjá þessum tilfinníngarlausir og viljalausir ad hjálpa þeim, einsog presturinn og Levitinn, sem ekkert skiptu sér af hinum hrasada. — En, sked getur einhver ydar huri: dæmi þeirra er ekki speigill fyrir oss ad líta í, heldur adeins, eda einkanlega fyrir þá, sem, einsog þeir, hafa feingid þá kollun, ad vidhalda sannri Gudsdýrkun og efla hana, sem settir eru af Gudi til ad vera andlegir verdir Krists safnada, — og eg ber ekki á móti, ad þetta sé rétt hurad, ad hér geti margur þeirra séd sjálfan sig, — en þá bid og ydur aptur líka, ad athuga þad, hver hann var, sem miskunarverkid gjørdi. Hann var hverki kennimadur, né kristinn, þó sagdi hans eigin tilfinning honum: þú átt ad

hjálpa þeim naudstadda, hver sem hann er, þegar þú getur það. Og þar þessi sýndi, ad hann vissi, hver skylda hans var í þessu efni, þá sjáið þér ekki sídur, hver skylda ydar er, þér sem hafið ødlast lángtum meiri náð og upplýsingu enn hinir Samverska, þér sem hlotið hafid það fagra tignar nafn ad heita kristnir. — O, kristnu vinir! gleymid ekki skyldum kristinna manna, og ein þeirra er sú, sem eg hefi talad um í dag. Þegar þér bidjist fyrir, þegar þér lesið drottinnlega bæn og seigid: „tilkomi þitt ríki“ — þá minnist heidíngjanna, — þá hurid um þeirra neyd og þarfir, þá ímyndid ydur þeir hrópi til ydar: Sendid þér oss Guds ord, sendid þér oss útvalda menn úr hópi Krists lærisveina, sem ekki horfi í ad yfirgefa heimili, brædur, systur, fødur, módur, konu, børn eda eignir vegna Jesú Krists, vegna vorrar tímanlegu og eilífu velferdar, Mat. 19, 29. — Slíkir eru þá þeir sendibodar, þeir postular Jesú Krists, sem kristnu þjódirnar á vorum døgum senda til heidíngjanna, og þó þeir opt ekki yfirgefi konur og børn, (alt annad, sem þeim er kærast, yfirgefa þeir), heldur taki þau med sér, þá meiga þeir þó fremur búast hér enn heima vid brádum skilnadi, þar umbreiting lopts og fædu ollir þeim tídum daudlegra veikinda, og það á únga aldri. — Hverjir medal mannanna finnast ydur jafnvirdíngarverdir og þessar hetjur Guds, sem af kærleika til Jesú gefa lífið út fyrir brædurna, sem strída med øllum lífs og sálar kroptum fyrir velferd heidíngjanna? Ad kristnir gjøri þeim postula gánginn svo greidan og gledilegan, sem audid er med fyrirbænum sínum og kærleiksgjøfum, það er sú skuld, sem allir kristnir, og þér einnig, eigid ad

borga heidíngjunum, þeir geta krafist hennar af oss, Guð hefir gefið þeim rétt til þess.

Vitið því fyrir víst, að svosem aðrar réttilegar bænir ydar og kjærleiksgáfur eru bæði heyrðar og séðar með velþóknan af föðurnum á himnum, þá munu þó ekki síður slíkar bænir og ølmusugjafir stíga upp fyrir Guð, og hann minnast þeirra, Post. g. b. 10, 4. Vitið fyrir víst, að heidíngjarnir eru líka Jesú minstu bræður, og að það, sem þér gjörið þeim, það gjörið þér sjálfum honum, — það, sem þér gjörið þeim, það gjörið þér kirkju hans hér á jørðinni til eflíngar og uppbyggingar, hún er ennú ekki albúin, bygging hennar stendur yfir þángað til alt mannkyn játar hann fyrir sinn Drottinn. Vér, sem játum hann, erum allir hans verkamenn við bygging þessa hans musteris, vér eigum að gjöra það bæði mikið og prýðilegt; þér, sem játið hann fyrir ydar drottinn, þér eigið þá líka að vinna að þessu mikla verki, að leggja 1 stein í þessa miklu bygging, — þarum hafið þér veriðámintir í dag, — gleymið ekki áminningunni, minnist hennar á ydar andaktar stundum hereptir, minnist hennar, þegar þér hér tilbiðjið Guð ydar og Frelsara, — þegar þér hér ekki heyrið mig framar til ydar tala. Byggið Jesú Krists kirkju sem sannir Jesú Krists lærisveinar, og sérhver ydar gæti að, hvernig hann gjörir það, því það mun verða opinbert, það mun verða prófað, hvílíkt hvers eins verk er; 1 Cor. 3, 10, 13. Guð láti þetta próf verða ydur og oss øllum til sóma og eilífrar blessunar.

Amen.

---

☞ Evangelisk Smárit, frá byrjun Nr. 69, eru að fá í Reykjavík, í Flatey á Breidafirdi, á Eyafirdi og á Reidarfirdi gefins þeim, sem taka þar við þeim sjálfir, en þeir sem þurfa að senda þau eður flytja, meiga taka 1 ß., undir 1 ark, hjá þeim, sem þeir færa þau, ef vilja.

Kaupmannahøfn 1851. Prentað hjá S. L. Møller.